Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

29. tölublað | Þriðjudagur 25.9.1979 | 8. árgangur | Kr. 200.-

Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

# Mótmæli við Sundahöfn

Sem kunnugt er efndu herstöðvaandstæðingar til mótmælafundar við Sundahöfn vegna komu átta NATO-herskipa til landsins.

Daginn áður höfðu herstöðvaandstæðingar reist skipunum níðstöng að hætti Egils Skallagrímssonar. Vegna mótmæla hestaeigenda hafði lögreglan fjarlægt níðstöngina.

Fundurinn hófst klukkan hálf sex og var efni úr herstöðvabaráttunni flutt, einkum ljóð og söngur.

Að lokinni dagskrá fóru sumir að huga að því hvort hægt væri að komast nær skipunum en lögregluþjónar höfðu lokað bryggjunni.

Fór svo að flestir fundarmenn komust inn fyrir lögregluvörðinn enda virtust lögregluþjónarnir ekki reyna mikið til að stöðva fólkið og hefðu raunar ekki getað það.

Þegar nær skipunum kom fjölgaði hins vegar lögregluþjónunum og var skipað að taka upp kylfur og beita þeim til að hreinsa bryggjuna.

Gengu lögreglumenn vasklega fram í þessari fólskulegu árás og beittu kylfunum óspart með þeim afleiðingum að nokkrir herstöðvaandstæðingar þurftu að fara á slysadeildina.

Það hefur vakið undrun manna hve viðbúnaður lögreglunnar var mikill. Hálft hundrað lagavarða var á staðnum. Átökin

framhald á síðu 2



Bresk "séntilmennska" lætur ekki að sér hæða. Hingað kom í kurteisisheimsókn freigátan Baccante sem af mikilli kurteisi sigldi á íslensk varðskip í þorskastríðinu.



Þessir lögregluþjónar gengu rösklega fram í barsmíðunum. Nokkrir hlutu meiðsli af völdum kylfubarsmíða og þurftu að leita læknis á eftir.



Sem sjá má voru fáir lögreglumenn við girðinguna. Slagsmálaliðið beið á bak við skemmurnar og réðist þaðan á fólkið.

# Fjölmennum í aðgerðir herstöðvaandstæðinga

Samtök herstöðvaandstæðinga eru nú að hefja vetrarstarf sitt. Virðist það ætla að fara af stað með miklum krafti og hefur þegar verið haldinn mótmælafundur við Sundahöfn vegna kom NATO-herskipa.

Á fimmtudagskvöld er boðað til aðgerða á Keflavíkurflugvelli og á laugardag til kröfugöngu frá Hafnarfirði.

Þegar Stéttabaráttan fór í prentun hafði lögreglustjórinn á Keflavíkurflugvelli bannað fyrirhugaðan fund herstöðvaandstæðinga fyrir framan flugstöðina á vellinum. Miðnefndin lýsti því þegar í stað yfir að hún hyggðist halda aðgerðirnar samt enda væru engin rök færð fyrir banninu. Það eru stjórnarskrárbundin réttindi að mega láta skoðanir sínar í ljós með fundahöldum og öðrum friðsamlegum hætti. Þetta ákvæði verður þó lítils virði í augum yfirvalda ef þær skoðanir sem láta skal í ljós eru þeim ekki að skapi.

## Friðsamar aðgerðir

Herstöðvaandstæðingar hyggjast láta skoðanir sínar í ljós með friðsamlegum hætti. Þeir ætla aðeins að safnast saman, halda ræður, hrópa vígorð og á annan friðsamlegan máta færa fram mótmæli sín. Ef lögreglan reynir að fjarlægja fólkið munu herstöðvaandstæðingar ekki beita valdi til að hindra það, enda ekki í stakk búnir til að mæta ruddaskap lögreglunnar. Smjörþefinn af þeim fantaskap fengu menn við Sundahöfn er lögreglan réðst á fólk sem hafði það eitt til saka unnið að ganga fram bryggjusporð með nokkur kústsköft og þorskhausa og nálgast þannig brynvarin herskip er lágu utan seilingar.

## Er Miðnesheiðin ekki íslensk?

Með því að boða til fundar inni á vallarsvæðinu ætla herstöðvaandstæðingar m.a. að láta á það

framhald á síðu 3

# ASÍ lætur undan VSÍ

Menn rekur eflaust minni til þess þegar farmenn áttu í verkfallsbaráttu s.l. sumar, að grafíska sveinafélagið boðaði til samúðarverkfalls eitt allra félaga. Þá réðust atvinnurekendur og ríkisstjórnin af alefli gegn farmönnum og ASÍ þagði þunnu hljóði. Hið sama er uppi á teningnum nú, er grafíska sveinafélagið gerir verkfall. VSÍ hamast gegn félaginu og skellir á það verkbanni og boðar til samúðarverkbanns sem átti að ná til nær allra þeirra er störfuðu innan prentiðnaðarins, en ASÍ hefst ekki að. Hver er orsökin fyrir þessu athæfi ASÍ?

Orsökin er einfaldlega sú, að Alþýðubandalagið situr í ríkisstjórn og þá er verkalýðshreyfingunni gert að sitja með hundshaus hvað sem á gengur. Verkfall grafíska sveinafélagsins hefur fært heim sannin um það hver raunveruleg kjaramálastefna Alþýðubandalagsins er. Hagsmunum hins vinnandi fólks er hiklaust fórnað, til þess að tryggja stjórnarsetu flokksins.

## Harðlína VSÍ.

Ef stjórn launþegasamtakanna væri í þágu hins vinnandi fólks myndi ASÍ án alls efa hafa tekið til annara ráða en þegja, þegar hótanir um harðindi frá VSÍ eru annars vegar. En harðlína VSÍ virðist vera í fullu

framhald á síðu 3

LEIÐARI

# Launin og verðlagið

Kenningin um að laun valdi verðbólgu hefur afsannast rækilega undanfarið ár.

Verðbólgan er slík að met hefur verið sett og hefur hún aldrei verið jafn mikil og nú.

Vöruverð hækkar svo ört að engin leið er að fylgjast með því. Til að bæta gráu ofan á svart er nú orðið löglegt að hækka verð á lager verslana um leið og ríkisstjórnin heimilar hækkunina.

Hækkun launanna er hins vegar svo lítil að hún vegur engan veginn upp á móti hækkunum vöruverðsins.

Það ætti því ekki að vefjast fyrir neinum að launin valda ekki verðbólgunni.

Hækkun launanna kemur alltaf eftir á, til að vega upp á móti vöruverðshækkunum.

Sannleikurinn er sá að verðbólga er óaðskiljanlegur hluti þess efnahagskerfis sem við búum við. Atvinnurekendur og ríkisvaldið búa yfir því afli að geta velt allri kostnaðarhækkun út í verðlagið og þar af leiðandi yfir á herðar launþega.

Eyðslan og sóunin sem þessi öfl standa fyrir veldur miklu af verðbólgunni.

14 milljarðarnir sem eytt var í Kröflu, til þess eins að lýsa sem samsvarar nokkrum vasaljósum, er eitt dæmi um framkvæmd sem gerir ekkert nema auka verðbólgu.

Þegar keyptir eru helmingi fleiri skuttogarar en þarf til að afla þess fiskjar sem má veiða og hægt er að vinna í landi þá hlýtur verðbólgan að magnast.

Þarna er milljörðum á milljarða ofan eytt og kastað í súginn. Fé sem sannarlega hefði mátt nýta til að koma fótunum undir arðbæra framleiðslu.

Og þegar kemur að skuldadögunum fyrir vanrækslusyndir atvinnurekenda og ríkisvaldsins þá eru tvær leiðir farnar. Önnur er að skrúfa upp allt verðlag í landinu, hin er að prenta fleiri peninga. Hvort tveggja hefur sömu áhrif, að auka verðbólgu.

Verjendur þessarar óráðsíu eru síðan svo ósvífnir að skella skuldinni á launþega. Þeir séu alltof frekir til fjárins og heimti sífellt hærra kaup. Og til að bæta um betur er almenningi legið á hálsi fyrir að lifa um efni fram, oft kallað lífsþægindafrekja.

Sannleikurinn er auðvitað sá að fæstir launþega hafa nokkuð afgangs þegar lífsnauðsynjar hafa verið keyptar og sífellt minna og minna eftir því sem kaupmátturinn rýrnar.

Ljótasti kafli þessarar sögu er þó enn ósagður.

Verkalyðsforingjar, sem maður skyldi halda að héldu vörð um hagsmuni umbjóðenda sinna, eru meðal ötulustu fylgismanna þessa ástands. Það hefur komið skýrt fram í sumar þegar sumir verkalýðsleiðtogar hafa gert svo lítið úr sér að standa gegn einstökum stéttarfélögum sem hafa reynt að brjóta skarð í kjaraskerðingamúr ríkisstjórnarinnar og atvinnurekenda. Þetta er þó ekki undarlegt ef ástandið er skoðað í ljósi þess að fámennisstjórn ASÍ hefur blátt áfram gert samning um þetta og framlengt kjarasamninga án hækkana.

Þessu ástandi linnir ekki fyrr en hinn almenni launþegi tekur í taumana og fer að stjórna stéttarfélögum sínum og beita þeim í þágu launþeganna gegn hagsmunum og samningamakki atvinnurekenda, ríkisstjórnar og áttavilltra verkalýðsforingja.

# Til lesenda Stéttabaráttunnar

Eins og lesendur hafa tekið eftir hefur Stéttabaráttan komið óreglulega út að undanförnu. Það stafar því að verið er að gera miklar breytingar á vinnuaðstöðu blaðsins. Þetta ástand er því aðeins tímabundið og mun blaðið hér eftir koma reglulega út.

Við biðjum lesundur velvirðingar á þessu.

# Stuðningur við Kamputseu

Í lok ágúst var haldinn fundur til stuðnings alþýðu Kampútseu. Þar var sýnr kvikmynd er Jan Myrdal tók í Kampútesu skömm fyrir innrás Víetnama í landið.

Sjónvarpinu var boðin þessi mynd til sýningar, en útvarpsráð hafnaði henni, enda afhjúpar hún margar af þeim lygum sem útvarpið hefur reynt að breiða út um stjórn Pol Pots.

Á fundinum var einnig kynnt ávarp sem ætlunin er að safna undirskriftum undir og senda á ráðstefnu sem halda á í Stokkhólmi á næsta ári.

## Kampútseuráðstefna

**Ávarp í tilefni alþjóðlegrar ráðstefnu sem haldin verður til stuðnings við baráttu kampútsísku þjóðarinnar gegn árás Víetnama og fyrir sjálfstæði lands síns.**

Árásarstríðið gegn Alþýðuríkinu Kampútseu stendur enn. Víetnamski herinn heyr árásar- og gjöreyðingarstríð gegn Kampútseu. Tilgangurinn er að velta úr sessi lögmætri stjórn landsins. Með þessu móti brýtur Víetnam gegn fullveldi Kampútseu, gegn sáttmála Sameinuðu þjóðanna og gegn meginreglum óháðra ríkja.

Þjóðir heims geta ekki þolað slíkt ósvífið brot gegn sjálfstæði Kampútseu. Slíkt umburðarlyndi væri ógnun við allar sjálfstæðar þjóðir. Þögn um þessa atburði yrði túlkuð sem samþykki við árásum og innrásum.

Þrátt fyrir mismunandi skoðanir okkar að öðru leyti sameinumst við um að fordæma hrottalegt hernám Víetnams á Kampútseu, stutt af erlendum öflum.

**Við krefjumst þess, að allt víetnamskt herlið hverfi þegar í stað frá Kampútseu. Við krefjumst þess að sjálfstæði og fullveldi landins sé virt. Við krefjumst þess að Kampútseumönnum verði aftur leyft að ráða sínum málum sjálfir.**

**Styðjum þjóð Kampútseu og lögmæta ríkisstjórn hennar í baráttunni gegn árás Víetnams. – Þessari áskorun beinum við til allra félaga og samtaka, sem unna lýðræði. Við beinum henni einnig til alþýðu heims og til ríkisstjórna allra landa sem unna friði, sjálfstæði og réttlæti.**

**Við hvetjum þessa aðila alla til að leggja sitt að mörkum til að tryggja árangur hinnar alþjóðlegu ráðstefnu sem haldin verður á hausti komanda til stuðnings við baráttu kampútsísku þjóðarinnar gegn árás Víetnama og fyrir sjálfstæði lands síns.**

# S.Þ. viðurkenna stjórn Pol Pots

Æðstu menn Sovétríkjanna og Víetnams urðu ókvæða við enda er afstaða S.Þ. um leið afhúpun á yfirgangi þessara ríkja í Kampútseu.

Meirihluti ríkja Sameinuðu þjóðanna hafnaði viðurkenningu á leppstjórn víetnama í Kampútseu nýlega og stjórn Pol Pots hefur enn sem fyrr fulltrúa á þingi samtakanna.

Leppstjórn víetnama nýtur einskis stuðnings utan tryggustu fylgiríkja Sovétríkjanna.

Nýjustu afrek stjórnar Heng Sanrins eru enda ekkert til að hrósa sér af. Henni hefur tekist að eyðileggja þann árangur í matvælaframleiðslu sem stjórn Pol Pots náði á sínum stutta ferli. Síðasta ár stjórnar Pol Pots var matvælaframleiðslan orðin það mikil að hungurvofunni var bægt frá. Leppstjórninni hefur hins vegar tekist að vekja þá vofu aftur á tæplega eins árs valdaferli sínum.



Alþýða Kampútseu berst enn við hlið Pol Pots sem hefur stóran hluta landsins á sínu valdi.

150.000 víetnömskum hermönnum verður lítið ágengt í baráttunni við skæruliða stjórnar Pol Pots. Það á eftir að sýna sig enn einu sinni í Kampútseu að innrásarliðið getur ekki borið sigurorð af ríkisstjórn sem hefur stuðning alþýðunnar.

framhald af forsíðu

MÓTMÆLI VIÐ SUNDAHÖFN

hljóta því að skrifast á reikning lögreglunnar þegar hún ræðst vopnuð kylfum á varnarlausa og friðsama mótmælendur. Auk þess er lokun bryggjunnar ekkert annað en ögrun við friðsama mótmælendur.

Hverjir eru gestgjafar herskipanna?

Eitt er það atriði sem lítill gaumur hefur verið gefinn. En það er hverjir eru gestgjafar NATO-herskipanna.

Það er augljóst að herskipin eru hér með samþykki ríkisstjórnarinnar og það er jafnvíst að yfirboðarar lögreglunnar, ríkisstjórnin eða einstakir ráðherrar, hafa látið þau boð út ganga að herstöðvaandstæðingar mættu ekki nálgast skipin.

Það væri til dæmis verðugt verkefni fyrir blaðamenn Þjóðviljans að grafast fyrir um hlutdeild ríkisstjórnarinnar í þessarri heimsókn og átökunum. Það ættu að vera þeim hæg heimatökin.

# *Magnús Kjartansson :*

# Vörðu landi bætist liðsauki

Þessi grein birtist í síðasta tölublaði Tímarits Máls og menningar. Okkur fannst það margt athyglisvert í greininni að við vildum stuðla að því að hún kæmi fyrir augu fleiri en lesenda téðs tímarits.

Þegar bandarískur her settist að á Íslandi í síðustu heimsstyrjöld fylgdu hernáminu skilyrðislaus fyrirheit bandarískra stjórnvalda þess efnis að hernáminu skyldi aflétt í styrjaldarlok. Þessi fyrirheit voru þó aðeins yfirskin, eins og dr. Þór Whithead hefur rakið manna skýrast í greinum og doktorsritgerðum sem ekki hafa enn birst hérlendis. Í raun og veru voru bandarískir ráðamenn að taka til við þráð sem þegar var tvinnaður á síðustu öld, þegar Bandaríkjastjórn keypti Alaska af rússum, og það viðhorf kom upp að gera þyrfti Grænland og Ísland að yfirráðasvæði Bandaríkjanna á hliðstæðan hátt. Því hernámu Bandaríkin Grænland og Ísland áður en vesturheimska stórveldið var orðið formlegur styrjaldaraðili.

Í samræmi við þessi viðhorf voru fyrirheitin um brottför Bandaríkjahers frá Íslandi svikin í styrjaldarlok. Í staðinn báru bandarísk stjórnvöld fram kröfu um ævarandi yfirráð yfir Íslandi, herstöðvar á þremur tilteknum stöðum til99 ára. Ég hef áður rakið hér í tímaritinu það sem þá gerðist á leynifundum fulltrúa þingflokka samkvæmt gögnum Kristins E. Andréssonar sem voru í fórum mínum en eru nú á handritasafni Landsbókasafnsins (sjá 1. hefti TMM 1977). Kröfum Bandaríkjastjórnar var hafnað vegna heitrar andstöðu Íslendinga, en þá einsetti stórveldið sér að ná marki sínu í áföngum og hefur nú tekist það svo vel, að þess verður t.a.m. ekki vart að neinn hernámsandstæðingur sitji á alþingi Íslendinga.

Baráttan gegn ásælni Bandaríkjastjórnar hefur verið háð allt frá styrjaldarlokum til þessa dags og hefur birst í hinum margbreytilegustu myndum. Verklýðssamtökin hérlendis hafa frá öndverðu tekið ríkan þátt í þessari baráttu, og má í því sambandi minna á forystu verklýðssamtakanna í baráttunni gegn Keflavíkursamningnum og aðild Íslands að stríðsbandalaginu Nato. Baráttan gegn erlendum herstöðvum á Íslandi og aðild vopnlausrar friðarþjóðar að stríðsbandalagi hefur allt til þessa mótað alþjóðlegan baráttudag launafólks 1sta maí hérlendis og ekkert tillit verið tekið til forystumanna sem hafa metið hollustu við Nató og Bandaríkjastjórn meira en íslenska samstöðu. Því rak mig í rogastans þegar ég sá "1sta maí ávarp Fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna Í Reykjavík, Bandalags starfsmanna ríkis og bæja og Iðnnemasambands Íslands 1979" Samkvæmt því hafa samtök launafólks í Reykjavík gert að sínum sjónarmið hernámssinna og Natóagenta, sem ævinlega hafa rökstutt viðhorf sín með því að bandarísk herseta á Íslandi væri "ill nauðsyn" vegna vígbúnaðarkapphlaups og styrjaldarhættu. Kaflinn sem fjallar um þetta mál í 1sta maí ávarpinu er svo hljóðandi:

"Íslensk alþýða fordæmir þá sóun á verðmætum, mannviti og tíma sem felst í vitfirrtu vopnakapphlaupi.

Verkalýðshreyfingin telur að aldrei megi til þess koma að Ísland taki þátt í slíkri vitfirringu, til dæmis sem geymslustaður kjarnorkuvopna. Þvert á móti hvetur hún til allsherjar afvopnunar, afnáms hernaðarbandalaga og þar með afnáms herstöðva hér á landi." (undirstrikun mín.)

Þarna er því haldið fram að forsenda afnáms herstöðva á Íslandi sé að vígbúnaðarkapphlaupinu linni og hernaðarbandalög verði lögð niður hvarvetna um heim, hernámið er með öðrum orðum "ill nauðsyn" eins og kanaagentar hafa haldið fram frá öndverðu. Engin tilraun er gerð til þess að meta styrjaldarátök sem fram hafa farið hvarvetna á hnettinum frá sjónarmiði stéttabaráttu né þjóðfrelsis; öll átök eru af hinu illa, og eðlilegt er talið að hernámi Íslands verði ekki aflétt fyrr en lömb leika sér með ljónum í paradís á heimskringlunni.

Þetta viðhorf er sótt til flatneskjulegustu hernámssinna á Íslandi. Fyrir nokkrum árum átti ég viðræður við Jósep Luns framkvæmdastjóra Nato og fyrrum flokksbundnum nasista, í Ráðherrabústaðnum við Tjarnargötu um herstöðvarnar á Íslandi. Í þessu viðtali lýsti Jósep Luns yfir því í viðurvist margra vitna, að herstöðvarnar á Íslandi væru ekki nein herfræðileg nauðsyn; Bandaríkin og NATO gætu rækt "eftirlit" sitt jafn vel án þess að hafa nokkrar stöðvar á Íslandi. Stöðvarnar væru hins vegar mikill fjárhagslegur ábati, það myndi kosta ærnar fúlgur að koma upp öðru kerfi. Forsenda herstöðvanna á Íslandi er með öðrum orðum sú ein að spara Nato og Bandaríkjastjórn fjármuni, svo að unnt sé að verja meira fé í staðinn í helsprengjur, geimflaugar og nifteindasprengjur. Herstöðvarnar eru framlag Íslendinga til þeirrar vitfirringar sem um er að ræða í ávarpinu. Þeim er ætlað að treysta svokallaðar forsendur þess að Ísland verði hernumið um aldur og ævi. Röksemdirnar bíta í rófuna á sér.



Magnús snuprar flokksbræður sína.



Hinn nýji liðsmaður "Varins lands".

Hér er um að ræða alger umskipti í mati forystumanna launafólks á hernámi Íslands og alþjóðlegum forsendum þess. Alþýðubandalagið er lang öflugasti þátturinn í samtökum launafólks í Reykjavík, og því hljóta þessi umskipti að vera kynjuð frá leiðtogum þess. Alþýðubandalagið var á sínum tíma stofnað, fyrst og fremst sem kosningabandalag, síðar sem fullgildur stjórnmálaflokkur, til þess að unnt væri að heyja baráttuna fyrir þjóðfrelsi og sómasamlegum kjörum alþýðu á sem öflugastan hátt í kosningum og á Alþingi og í öðrum stjórnarstofnunum. Í fyrra var þjóðfrelsisbaráttunni kastað fyrir róða með þátttöku í ríkisstjórn sem hefur hernám á stefnuskrá sinni og menn sem buðu sig fram í síðustu kosningum sem hernámsandstæðingar sitja nú í nefnd sem fjallar um framkvæmd hernámsins um ófyrirsjáanlegan tíma og lætur formann sinn flytja frumskýrslu um störf nefndarinnar á Varðbergsfundi. Svo var að sjá og heyra í dag sem ekki hefði tekist betur til um kjaramálin. Þátttakan í ríkisstjórninni virðist þannig helst hafa þann tilgang að kynna erindreka Carters Bandaríkjaforseta íslensk skinnhandrit forn og halda hátíðlegt 67 ára afmæli Kím Il Sungs Norður-Kóreuleiðtoga, þótt í fyrra tilvikinu þyrfti á ráðherra að halda en í seinna tilvikinu dugði aðstoðarráðherra, enda hefur aðeins fyrrnefndur heiðursgesturinn þakkað opinberlega þann einróma stuðning við hernámsstefnuna sem fram hafi komið hjá ríkisstjórn Íslands.

Skrifað 1sta maí í stað þess að taka þátt í kröfugöngu og útifundi undir merkjum varins lands.




Eitt verð ég að segja þér. . . .

Út er komin plata Samtaka herstöðvaandstæðinga. Eitt verð ég að segja þér. Heimavarnaliðið leikur og syngur þar ellefu baráttulög.

Heimavarnaliðið skipar fólk úr söngsveitinni Kjarabót, hljómsveitinni Póker, auk nokkurra manna úr Sinfóníuhljómsveitinni. Brunaliðsfólkið Pálmi Gunnarsson og Ragnhildur Gísladóttir leggja einnig fram sinn skerf.

Allur flutningur er vandaður og flytjendum til hins mesta sóma.

— o o —

Nýr starfsmaður Alþýðubandalagsins í Reykjavík

Tveir umsækjendur voru um starf á skrifstofu Alþýðubandalagsins í Reykjavík.

Ekki reyndist unnt að gera upp á milli þeirra og voru þeir því báðir ráðnir.

Annar þessara manna er fyrrverandi félagi í Kommúnistaflokknum, Benedikt Kristjánsson. Má hann, að sögn heimildar manns Stéttabaráttunnar innan Alþýðubandalagsins, þakka frama sinn einum manni öðrum fremur, þ.e. Ólafi Ragnari Grímssyni. Stuðningur Ólafs við Benedikt var eindreginn og réðst mjög af því að nauðsynlegt þótti að fá mann úr verkalýðsarminum sem starfsmann. Benedikt mun einmitt eiga að hafa verkalýðsmál á sinni könnu.

Ritnefnd Stb getur ekki annað en glaðst yfir ört hækkandi gengi Benedikts innan Alþýðubandalagsins og óskar þeim báðum til hamingju, Benedikt og Alþýðubandalaginu.

framhald af forsíðu

ASÍ LÆTUR UNDAN VSÍ

samræmi við stjórnarstefnuna. til þess að vinna bug á verðbólgunni (sem nú er orðin aðalóvinur Alþýðubandalagsins) er ætlunin að berja hagsmunabaráttu verkafólks niður og ganga þannig frá hnútunum, að kaup hækki ekki, þótt það þurfi að kosta bráðabirgðalög. Verkalýðshreyfingin verður að vera á varðbergi gagnvart aukinni harðlínu VSÍ og svara öllum hótunum með gagnaðgerðum - þó að það setji blett á baráttu Alþýðubandalagsins gegn verðbólgunni. Vilji verkalýðshreyfingin eiga traust félagsmanna sinna, verður hún að grípa til harðari aðgerða og kveða niður hávær smápeð eins og Þorstein Pálsson af fullri hörku. Ef hún gerir þetta ekki, er hún óhjákvæmilega samábyrg atvinnurekendum og ríkisstjórn þeirra.

# Fjölmennum í aðgerðir herstöðvaandstæðinga

framhald af forsíðu

reyna hvort sömu stjórnarskrárbundnu réttindi gildi á vellinum og annars staðar á landinu.

Herinn hefur oftsinnis boðið til sín fólki og fundað þar yfir því með sinn áróður. En þegar íslendingar ætla að boða til fundar með gagnstæðum áróðri eru slík fundarhöld bönnuð.

Þetta vekur upp spurninguna hverjir ráða á Miðnesheiðinni, íslensk eða bandarísk stjórnvöld?

Hafnarfjarðarganga

Á laugardag munu herstöðvaandstæðingar svo bæta um betur og fara í kröfugöngu. Farið verður af stað frá Hvaleyrarholti skammt sunnan Hafnarfjarðar og haldnir stuttir útifundir í Hafnarfirði, Kópavogi og Reykjavík.

Allar þessar aðgerðir sýna að herstöðvaandstæðingar ætla síður en svo að leggja upp laupana þótt ríkisstjórnin gangi erinda bandarísku heimsvaldastefnunnar. SHA eru sjálfstæð samtök sem heyja ótrauð sína baráttu hvað sem stjórnmálaflokkarnir tauta og raula. Barátta herstöðvaandstæðinga heldur áfram uns herinn fer úr landi og Ísland úr NATO.

Landsráðstefna

Í október verður landsráðstefna SHA haldin og vonandi mun hin hressa byrjun vetrarstarfsins verða til þess að vel verði mætt á ráðstefnuna. Brýna nauðsyn ber til að skipuleggja öflugt vetrarstarf því aðeins með linnulausu starfi og áróðri næst markmiðið fram.

Stéttabaráttan hvetur alla lesendur sína til þess að hrista nú af sér slenið og FJÖLMENNA Í aðgerðir Samtaka herstöðvaandstæðinga.




# Áskriftargjöld 1979

VENJULEG ÁSKRIFT : KR. 5000.-

BARÁTTU ÁSKRIFT : KR. 7000.-

TIL ÚTLANDA : KR. 13000.-

TIL ÖRYRKJA OG ELLILÍFEYRISÞEGA : KR. 500.-



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
29. tbl. 8. árg. 25.9. 1979



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.


# Andstæðingar Flugleiða týna tölunni

Enn að nýju heldur fjármálaklíkan kringum Flugleiði og Seðlabankann sýningu á ægivaldi sínu og sósíalíski samgönguráðherrann leggur blessun sína yfir allt saman.
Afgreiðsla Vængjamálsins svokallaða er líklega dæmafá, ekki svo að skilja, að hagsmunir risafyrirtækjanna séu ekki látnir ganga fyrir annars, en það er sjaldgæft að allt sé gert fyrir opnum tjöldum og kinnroðalaust eins og nú var.
Kristinn Finnbogason, stjórnarformaður Iscargo h/f er að vonum harla óánægður með úrslit mála og telur afgreiðslu málsins algert siðleysi. Ekki vissum við að Kristni þætti slík afgreiðsla siðferðismál, enda situr það kannske síst á honum að tala um slíkt. En á hitt er að líta, að í þetta sinn var Kristinn beittur óréttinum og þótti það ekki gott. En hann hefur samt rétt til síns máls, er hann gagnrýnir afgreiðslu þessa máls. Það er rétt, að í flugráði eiga sæti þrír starfsmenn Flugleiða og þar af er einn formaður Arnarflugs, sem hreppti hið eftirsótta flugleyfi.

Vafalítið er þetta fátítt að svo opinskátt sé staðið að svindlinu, en á það ber að líta, að þegar málið var afgreitt voru blöðin í verkfalli og erfitt að skrifa um það í stríðsletri á meðan.

Þáttur sósíalíska samgöngumálaráðherrans er þó kannske sá skemmtilegasti. Samgöngumálaráðuneytið gefur út yfirlýsingu þess efnis, að virða beri sjálfræði Arnarflugs, af því að það sé dótturfyrirtæki Flugleiða h/f og halda uppi eðlilegri samkeppni. Hvernig samgöngumálaráðherra hugsar sér að samkeppni Flugleiða við sjálfa sig fari fram er hulin ráðgáta og eins hitt hvernig virða beri sjálfræði fyrirtækis sem er fjárhagslega rígbundið Flugleiðum h/f. Slík yfirlýsing ber annað hvort vott um dæmalausan barnaskap, eða fláræði.

Og hvort tveggja er afar illt.

Sunna afgreidd.

Annað framtak Samgöngumálaráðuneytisins er að taka ferðaskrifstofuleyfið af Sunnu, þegar svo var komið, að ferðaskrifstofan gat ekki lengur selt viðskiptamannavíxla sína til Landsbankans. Sunna hefur greinilega verið þyrnir í augum Flugleiðaklíkunnar um langan aldur og skipulögð aðför gegn henni hefur loks leitt til þess að ferðaskrifstofan hefur orðið að loka. Ef um er svipast á vettvangi ferðaskrifstofanna, standa þá þrír stórir aðilar eftir: Úrval sem er í eigu Flugleiða, Samvinnuferðir sem SÍS á og loks Útsýn sem Ingólfur Guðbrandsson á. Meðan verið var að ganga frá Guðna í Sunnu hefur Ingólfi verið hyglað af bankavaldinu. En nú er Guðni horfinn af sjónarsviðinu, skyldi Ingólfur þá ekki vera næstur?
Hvernig sem það fer, hefur þó öll meðferð þessa máls sýnt ljóslega hvernig efnahagskreppa auðvaldsins neyðir það til æ meiri samþjöppunar og hvernig einokunarauðvaldið brýtur niður smærri fyrirtæki og gleypir rekstur þeirra og atvinnuleyfi í sig. Í hinu frjálsa íslenska hagkerfi ríkir greinilega hinn annálaði frumskógarréttur, sem Sjálfstæðismenn eru svo hrifnir af.

# BSRB og kjarasamningarnir

Samningar opinberra starfsmanna hafa verið lausir í rúma þrjá mánuði, eða frá 1. júní, en ekki bólar enn á kröfugerð af hálfu BSRB, utan almennra ályktana þingsins.
Þykir ýmsum opinberum starfsmönnum orðinn langur dráttur á.
Það virðist svo sem forystumenn BSRB hafi lítið lært af lexíu sinni frá í vor þegar opinberir starfsmenn höfnuðu samningamakkinu við ríkisstjórnina.
Það kann að vera skýring að beðið sé eftir að kennarar komi til starfa eins og gert var vorið 1976, en þeir eru mjög stór hópur innan BSRB. En hitt þykir sumum líklegra að forysta BSRB ætli að halda að sér höndunum að minnsta kosti fram yfir 1. desember en þá lýkur framlengingu kjarasamninga ASÍ-félaga. Enda var einmitt það sem bjó að baki samkomulagsins á síðasta vetri.

Ef forysta BSRB kýs enn að þjóna ráðherrunum til sængur frekar en að leiða kjarabaráttu opinberra starfsmanna, þá vaknar spurningin hvort ekki sé nauðsynlegt að endurvekja andóf innan raða opinberra starfsmanna.

# Enn vaxtahækkun

Enn á ný hafa vextir hækkað. Í þetta skiptið var hækkunin minni en hún hefði orðið samkvæmt efnahagslögum ríkisstjórnarinnar. Nóg þykir samt að gert.
Hæstu vextir eru nú komnir í 41% en víxilvextir í 31%. Vaxtaaukalánin bera 41% vexti en þau eru einmitt lánin sem launþegum bjóðast aðallega.
Markmiðið með vaxtahækkunum þessum er sem kunnugt er að vextir og verðbólgustig verði jöfn. Með þessu er verið að verðtryggja tekjur banka og fjármagnseigenda og launþegar eiga að greiða þessa verðtryggingu. Það sést best á því að á meðan vextir lána til almennings hækka um 5% þá hækka vextir lána til atvinnuvega um 2%.

Hver maður sér það að þessi leið er ófær. Það hlýtur að leiða út í ógöngur að láta launþega kaupa að fullu verðtryggð lán sem þeir verða að greiða með að hálfu verðtryggðum launum. Bilið milli launanna og útgjaldanna hlýtur því enn að aukast.




Í Fredricia og víðar hlaut gangan stuðning m. a. frá starfsfólki bruggunarverksmiðja.

# Kröfuganga atvinnulausra í Danmörku

Í tvær vikur hafa verkamenn og atvinnuleysingjar gengið eftir dönsku þjóðvegunum frá Álborg til Kaupmannahafnar, til að krefjast atvinnu. Um 200 manns hafa gengið alla leiðina en mest hafa rúm 2000 manns verið í einu.

Sven Laursen talsmaður baráttuhópsins í Århus sagði að gangan væri gott upphaf að öflugri hreyfingu meðal atvinnulausra um land allt.

Hugmyndin að göngunni kviknaði fyrir tveim árum síðan.

Þá komu nokkrir danir heim frá slíkri göngu í Englandi. Í lok síðasta árs mynduðust svo baráttuhópar fyrir gönguna í Álborg, Århus og Odense. Er gangan hófst í lok ágúst voru 30 hópar starfandi um alla Danmörku.

Á leið sinni hafa göngumenn fengið stuðning frá einstaklingum og stéttarfélögum staðanna.

Um 200 stéttarfélög hafa sent göngunni stuðningsyfirlýsingar.

Stéttarfélag setjara hefur stutt gönguna með 10.000 d.kr framlagi.

Gangan hefur komið af stað umræðum meðal atvinnuleysingja um land allt og milli atvinnuleysingja og stéttarfélaga. Í sambandi við LO-þingið (LO er danskt ASÍ) munu baráttuhóparnir koma saman til ráðstefnu þar sem rætt verður um framhald aðgerða og samskifti við stéttarfélög og flokka.
Í göngu atvinnuleysingjanna eru bornar 15 kröfur. Meðal þeirra er krafa um 35 stunda vinnuviku án launalækkunar eða aukins vinnuálags, yfirvinnubann, framleitt sé eftir þörfum en ekki gróða og að erlent verkafólk sé ekki rekið úr landi.

(Byggt á sænska blaðinu Arbetarkamp)

# 'Áskrift

Ég undirrit<sup></sup>aður/uð óska eftir að gerast áskrifandi að STÉTTABARÁTTUNNI.

Nafn: ______________________

Heimili: ______________________

______________________

Sendist til: STÉTTABARÁTTAN
Pósthólf 1357
121 Reykjavík